Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

4. tölublað | Þriðjudagur 8. feb. 1977 | 6. árgangur | verð kr. 100

Áskrifendur STÉTTABARÁTTUNNAR eru vinsamlegast beðnir um að láta ritnefnd blaðsins vita ef einhver brestur hefur verið á að þeir fengju blaðið sent. Ef svo er, mun ritnefnd senda þau blöð, sem á vantar. Orsakirnar fyrir þessu, eru viss óreið sem skapast hefur í skipulagningu áskriftaútsendinga og skráningar áskrifenda

ritnefnd

# Mjólkurbúðamálið
# Lœrum af reynslunni

Nú er Mjólkursamsalan búin að loka flestum mjólkurbúðum á Stór-Rvík,svæðinu, þrátt fyrir þá sanngjörnu kröfu afgreiðslukvenna að 25 búðum yrði haldið opnum í 5 ár, til að tryggja atvinnu þeirra kvenna sem elstar eru. 47 konur eru atvinnulausar, flestar búnar að vinna ár og áratugi og komnar yfir miðjan aldur. Það gefur auga leið að erfitt verður fyrir þær að fá sér vinnu í öðrum starfsgreinum.

Mikil barátta átti sér stað gegn lokun mjólkurbúðanna, því hætta er á verri þjónustu og hærra verði á mjólk og mjólkurvörum hjá kaupmönnum sem nú annast mjólkursöluna. Rúmlega 17 þús. neytendur mótmæltu lokuninni í víðtækri undirskriftasöfnun á vegum samstarfsnefndar gegn lokun mjólkurbúða.

Sögulegar kosningar áttu sér stað um fulltrúa Félags afgreiðslustúlkna í brauð- og mjólkurbúðum á ASÍ- þingið Þar sigraði listi Lilju Kristjánsdóttur og hennar baráttukvenna glæsilega, stjórn félagsins, sem ekkert vildi aðhafast til að koma í veg fyrir lokun búðanna. Á ASÍ-þinginu var samþykkt stuðningsályktun með baráttu kvennanna og svo var einnig á félagsfundi í Verkamannafélaginu Dagsbrún, en í því félagi eru verkamenn sem vinna hjá Mjólkursamsölunni. En allt kom fyrir ekki, lokun búðanna var hafin.

Stjórnir verkalýðsfélaganna vildu ekki sýna stuðning sinn í verki, og á það sérstaklega við um Dagsbrún þar sem málið var þeim að vissu leyti skylt. Þess vegna voru konurnar sem áttu yfir höfði sér atvinnuleysi, tilneyddar til að taka upp baráttu gegn lokuninni Farið var í kröfugöngu og haldnir voru inni-og útifundir. Stjórnum verkalýðsfélaganna voru send bréf, þar sem farið var fram á stuðning og reynt var að ná tali af stjórn Dagsbrúnar. Ekkert verkalýðsfélag svaraði bréfunum og Dagsbrúnarstjórnin vildi ekkert við Lilju Kristjánsdóttur tala, og voru þannig í verki meðmæltir lokun búðanna. Stjórn ASB með Hallveigu Einarsdóttur Alþýðubandalagskrata neitaði að halda fundi í félaginu eftir að sýnt var, að meirihluti kvennanna vildi taka upp baráttu gegn lokun mjólkurbúðanna.

Aðstaðan var vissulega erfið Ekki vildu allar félagskonur taka upp baráttu og verkalýðsfélögin létu málið ekki til sín taka. Nú eftir á að hyggja, er hægt að segja að konurnar hefðu átt að fara út í verkfallsaðgerðir til að leggja enn frekari áherslu á baráttu sína. En ekki er hægt að fullyrða hvernig þá hefði farið, almenningur sem hafði samúð með baráttu þeirra hefði mögulega orðið fráhverfur málstaðnum. En þrátt fyrir þessa hættu, hefði hugsanlega verið rétt að fara í verkfall, treysta öllum þeim fjölda sem stutt hafði baráttuna hingaðtil, þrátt fyrir svik ASB og stjórnar verkamannafélagsins Dagsbrúnar. En eitt er víst, að reynsla mjólkurbúðakvennanna kennir okkur að ekki þýðir að treysta á stuðning forystumanna ASÍ né stjórna velflestra verkalýðsfélaganna á Stór-Rvík. svæðinu í verkalýðsbaráttunni, heldur fyrst og fremst í eigin krafta.

-bsk.




FRÁ KRÖFUGÖNGU GEGN LOKUN MJÓLKURBÚÐANNA

# Geirfinnsmálið
# Eru öll kurl komin til grafar

Þýski sakamálafræðingurinn Karl Schüts, sem starfað hefur að Geirfinnsmálinu undanfarið, hefur nú opinberað vísdómsfulla lausn á málinu. Hér var ekki um neina fjársterka aðila að ræða, eða neins konar mafíu leggur herra Schüts áherslu á. Þetta voru ósvífnir smáþjófar, sem vissu varla mun lífs og dauða í bíræfnu hnupli sínu . Karl Schüts, sem gat sér orð fyrir rannsókn á Baader-Meinhof málinu í Þýskalandi, hverfur nú af landi brott og að sögn yfirvaldanna eru nú engir endar lausir í Geirfinnsmálinu lengur. Allt er klappað og klárt, nema hvað ekkert lík er fyrir hendi. En eru þá öll kurl komin til grafar í þessu umfangsmesta og óhugnanlegasta sakamáli síðari ára á Íslandi?

## Endalaust lausir endar

Margt af því sem nú kemur fram í uppljóstrunum herra Schüts og samstarfsmanna hans er einkennilegt svo ekki verði meira sagt. Það virðist svo, sem aðaláherslan sé lögð á að engir efnamenn komi nálægt málinu og að orsökin fyrir morðinu á Geirfinni sé misgáningur. Bófarnir hafi blandað ríku fólki í málið vegna haturs síns á kapítalismanum og róttækra skoðana sinna. Á hinn bóginn er mörgum atriðum, sem höfðu komið fram við fyrri yfirheyrslur nú algerlega sleppt og ýmislegt er mótsagnakennt í söguþræðinum. Spyrja má, hvernig það má vera, að Geirfinnur upplýsi kunningja sinn um það að hann sé að fara í hættuferð og sé vissara að vera vopnaður, ef hann hélt að erindið væri að fá keyptan spíra? Ætli það sé algengt, að fólk fari vopnað á stefnumót þegar það heldur að það geti fengið keypta smyglaða bokku? Og hvers vegna kynnti Sævar Ciesielsky sig sem Magnús Leópoldsson í Klúbbnum kvöldið góða, ef honum hugkvæmdist ekki fyrr en ári síðar að blanda Klúbbmönnum í málið? Áleit Geirfinnur nauðsynlegt að fara vopnaður á fund manns, sem hann hélt vera Magnús Leópoldsson.? Hvers vegna? Þessi atriði vekja ósjálfrátt þá spurningu, hvort játningar sakborninga og samræmdur framburður sé enn að einhverju leyti mótsagnakenndur. Alla vega er ljóst, að nafn Magnúsar hefur vakið ugg í brjósti Geirfinns og hann því talið nauðsynlegt að fara að öllu með stökustu gát. Og á hinn bóginn virðist Sævar hafa kynnt sig sem Magnús í þeim tilgangi að réttlæta áhuga sinn fyrir innkaupum á miklu magni af spíra. Hér er um að ræða atriði sem rannsóknarlögreglan hlýtur að taka til alvarlegrar athugunar. Þetta er "laus endi"sem verður að rekja. Og lausu endarnir eru sannarlega fleiri.

## Bílarnir sem sáust og bílarnir sem notaðir voru

Samkvæmt Schüts og samstarfsmönnum hans, upplýstist nú, að notaðir voru tveir bílar í sambandi við morðið. Ljós sendiferðabíll og blár Volkswagen, sem leigður var undir borðið í bílaleigunni Geysi. Stingur þetta nokkuð í stúf við fyrri framburð vitna, sem tilkynntu að þau hefðu séð til grunsamlegra bílaferða utan við Hafnarkaffi í Keflavík, þaðan sem hringt var í Geirfinn kvöldið fræga. Vitni höfðu séð, ljósan sendiferðabíl en samkvæmt uppljóstruninni er hér um tilviljun að ræða, því sendiferðabíll Sigurðar Óttars Hreinssonar fór aldrei umrætt kvöld inn í Keflavík, heldur beið



Þýski sakamálasérfræðingurinn Karl Schüts

með ljósin slökkt við dráttarbrautina utan við bæinn. Vitni höfðu einnig séð lítinn rauðann FIAT með G-númeri og virðist sem Schüts og co. telji hér líka vera um tilviljun að ræða. Fyrri yfirlýsingar um að Erla Bolladóttir hafi hleypt af riffli að Geirfinni eftir að hann hafi verið barinn illa í bátsferð, eru nú með öllu gleymdar og virðist svo sem lögreglan álíti þá sögu vera uppspuna einan

## Styttan og fyrirmyndin

Leirstyttan fræga, hefur verið talin líkjast Magnúsi Leópoldssyni og það svo að sum blöð hafa giskað á að Magnús hafi verið notaður sem fyrirmynd, en ekki maðurinn sem vitnin sáu En samkvæmt framburði Eggerts Bjarnasonar rannsóknarlögreglumanns í Kastljósi, var styttan algerlega mótuð eftir framburði vitna, þannig að útlitslíking við Magnús er enn einn leyndardómsfull tilviljun málsins. Hins vegar er einkennilegt, að konurnar sem sáu símamanninn um kvöldið í nóvember 1974, skuli hafa sagt hann ljóshærðan, þar sem Kristján Viðar er dökkhærður. Konurnar munu heldur ekki hafa borið kennsl á Kristján Viðar, þegar reynt var hvort

Framhald á bls. 3

# Herðum bárattuna gegn Sionismanum

Í kjölfar árásarstríða Sýrlendinga gegn Palestínumönnum og vinstri-öflunum í Líbanon, hefur bandaríska heimsvaldastefnan og sioniskir leppar hennar í Ísrael hert óhróður sinn gegn frelsissamtökum Palestínumanna - PLO. Liður í þessari árás á sviði áróðursins, árásin á Entebbe-flugvöll. Þar er gerð lymskufull árás á frelsisbaráttu Palestínsku alþýðunnar og flugránið eignað henni. PLO hefur margoft lýst sig andsnúið starfsaðferðum flugræningja og hemdarverkamanna og bent á að frelsissamtök Palestínu eiga engan þátt í þessum aðgerðum. Eigi að

Framhald á bls. 2

## YFIRLÝSING FRÁ PALESTÍNUNEFNDINNI Á ÍSLANDI

Í tilefni þess að Háskólabíó hefur hafið sýningar á myndinni "Árásin á Entebbe-flugvöll" vill Palestinunefndin koma eftirfarandi á framfæri:

1)Þessi mynd er gerð með það fyrir augum að réttlæta innrás Ísraelhers inn í Úganda og tvímælalaust brot Ísraels á alþjóðalögum. Réttlæting innrásarinnar er um leið réttlæting á þeirri árásar-og útþenslustefnu sem síonisminn rekur.

2) Myndin er m.a. gerð með það fyrir augum að breiða út það sjónarmið heimsvaldasinna að palestínuarabar séu ekki landflótta þjóð, heldur einstakir hryðjuverkamenn sem "nærast á morðum og illvirkjum" eins og það hefur gjarna verið orðað í fjölmiðlum sem hlynntir eru síonismanum.

3) Palestínunefndin vill benda á, að orsaka Palestínuvandamálsins er að leita í þeirri staðreynd að síonisminn, sem er ofstækisstefna sem byggir á kynþátta-og trúarbragðamismunun, hefur neytt 2 milljónir palestínuaraba til að sæta hlutskipti flóttamanna. Þetta hefur síonisminn gert með beitingu hryðjuverka, endurteknum árásarstríðum gegn arabaríkjum, fasískum lagasetningum sem beinast gegn aröbum í Ísrael, og með því að meina landflótta palestínuaröbum að snúa á nýja leik til heimalands síns. Fasisma og kynþáttastefnu Ísraelsstjórnar þverr í dag fylgi um allan heim, en stefnu frelsissamtaka Palestínuaraba. PLO vex stöðugt fylgi. Á sama tíma og fjölmiðlar hampa svokölluðum hryðjuverkum palestínuaraba, hafa þeir þagað þunnu hljóði yfir afstöðu PLO, sem fordæmir öll hryðjuverk gegn óbreyttum borgurum. PLO hefur margítrekað þá afstöðu sína að þau fordæmi flugrán, og að þeir sem þau fremja eru ekki vinir palestínsku þjóðarinnar heldur óvinir hennar.

4) Hinir raunverulegu hryðjuverkamenn eru síonistar, eða eru það ekki hryðjuverk að svipta heila þjóð rétti sínum til sjálfsákvörðunar og reka hana í útlegð? Kalla menn loftárásir á flóttamannabúðir, sviptingu mannréttinda til handa aröbum í Ísrael, morð á leiðtogum palestínuaraba víða um heim og pólitískar fangelsanir, eitthvað annað en hryðjuverk?

5) Palestínunefndin vill benda á að eina raunhæfa lausnin á Palestínuvandamálinu felst í stofnsetningu lýðræðisríkis í Palestínu þar sem öll trúarbrögð og kynþættir geta lifað saman. Það er stefna PLO-það er stefna sem er andstæð síonismanum.

# LEIÐARI

## Alþjóðleg samstaða

Víða um heim hafa félagar marxískra-lenínískra flokka sætt óheyrilegum ofsóknum og verið ýmist myrtir af yfirvöldum, eða fangelsaðir saklausir. Í Þýskalandi hafa fasískir hópar hert árásir sínar gegn kommúnistum og samtímis hafa réttarofsóknir og lögreglumorð gegn félögum marxískra-lenínískra flokka og samtaka færst í aukana. Á Spáni eru félagar Kommúnistaflokks Spánar m-l ofsóttir fyrir baráttu sína í þágu lýðræðis og sósíalisma.
Verst er þó ástandið í þeim löndum þriðja heimsins, þar sem fasískar valdránsbyltingar hafa verið framdar, eins og í mörgum ríkjum S-Ameríku. Nýlega bárust okkur þau tíðindi, að þrír félagar úr miðstjórn Kommúnistaflokks Brasilíu hafi verið myrtir á ruddalegan hátt fyrir skemmstu. Pedro Pomar, Angelo Arroyo og Joao Batista féllu fyrir morðvopnum fasistanna og gáfu líf sitt fyrir byltinguna.
-P. Menéndes félagi miðstjórnar Kommúnistaflokks Argentínu m-l hefur sent KFÍ/ML bréf, þar sem upplýst er, að nýlega hafi félagar verkalýðshreyfingarinnar í Argentínu verið hnepptir í fangelsi fyrir baráttu sína í þágu lýðræðis, frelsis og byltingarinnar. Félagar Argentínska Kommúnistaflokksins ákalla almenningsálitið í öllum löndum, til að krefjast frelsis fyrir C. Patrignani, H. Condori, M. Condori, R. Aragon og C. L. Figueroa, sem nýlega hafa verið fangelsaðir í Argentínu.
Hið sama fer fram í öðrum ríkjum S-Ameríku, t.d. hefur farið fram víðtæk barátta fyrir frelsi félaga úr Kommúnistaflokki Uruguay, Mario Echenique sem fanginn er í Argentínu. Í Paraguay situr Margarita Baez félagi úr andspyrnuhreyfingunni í Paraguay í dýflissum stjórnarinnar.
Miðstjórn Kommúnistaflokks Íslands/ML tekur undir kröfur um að þessir baráttufélagar okkar verði látnir lausir þegar og krefst þess að ofsóknum gegn baráttufólki í þessum löndum verði hætt. Það er aðeins samstaða og skipulagning verkalýðs og vinnandi alþýðu allra landa undir forystu marxískra-lenínískra flokka sem getur sigrað fasískar ofsóknir og ofbeldi heimsvaldastefnunnar og innlenda afturhaldsins. Slík alþjóðleg samstaða er mikilvægt verkefni í uppbyggingu hinnar marxísu-lenínísku hreyfingar. Sameiginleg yfirlýsing og áætlun Kommúnistaflokka í S-Ameríku um að herða baráttuna gegn ofbeldi fasismans og heimsvaldastefnunnar, er mikilsvert spor í þessa átt, það er markverður áfangi í sköpun sterkra tengsla verkalýðs og vinnandi alþýðu heimsins. KFÍ/ML vill styðja þessa viðleitni með því að efla tengslin við marxista-lenínista allra landa. Það er verkefni, sem flokkurinn mun leggja meiri rækt við héðan af en hingað til.

7/2.

# Eins árs dánararafmæli Chou En Lai

Nú er liðið rúmlega eitt ár frá því hinn mikilhæfi leiðtogi Kínversku alþýðunnar, Chou En-lai féll frá. Chou var elskaður og dáður af samlöndum sínum og ásamt Maó Tse-tung var hann óskoraður leiðtogi Kommúnistaflokks Kína og einn fremsti byltingarforingi kínversku byltingarinnar. Um allan heiminn vottuðu verkafólk og vinnandi alþýða Kínverska flokknum, alþýðu landsins og aðstandendum Chou En-lai virðingu sína og samúð. En innan Kína voru samt til einstaklingar sem glöddust við fráfall Chou En-lai og reyndu að sverta minningu ha hans á allan hátt.

### Andflokksklíka fjórmenninganna réðst gegn Chou En-lai.

Andflokksklíka fjórmenninganna Chiang Ching, Chang Chun Chao Yao Wen Yuan og Wang Hung wen, réðst af offorsi á hinn látna leiðtoga og gerði allt sem í hennar valdi stóð til að rýra minningu hans og ævistarf.
Yao Wen-yuan gaf t.d. út tilskipun um að greinar um lát félaga Chou En-lai, skyldu víkja fyrir venjulegum fréttum um aukningu á sviði framleiðslunnar, eða árangra á sviði menningar eða vísinda. Hann var því mótfallinn, að birtar yrðu allar þær samúðar kveðjur og hin fjölmörgu minningarskeyti, sem bárust flokknum hvaðanæva að úr Kína og öllum heiminum. Kínversku fréttastofunni var fyrirskipað að birta sem minnst um lát forsætisráðherrans og í daglegu fréttariti hennar "Hsinhua" mátti helst ekki birta neitt um hinn látna leiðtoga.
Skemmdarstarf þessarar andflokksklíku miðaði raunverulega að því að brjóta niður alræði öreiganna í Kína og endurreisa kapitalismann í Kína.
Fjórmenningarnir hötuðu Chou vegna stefnufestu hans og ófrávíkjanlegrar baráttu gegn nútíma endurskoðunarstefnunni. Þeir reyndu að sverta minningu hans og ætluðu sér einnig að ráðast gegn Maó formanni og miðstjórn flokksins. En andflokksklíka fjórmenninganna beið algert skipbrot, Chou er vinsæll og elskaður meðal kínverskrar alþýðu og alþýðu alls heimsins.

### Sigurinn yfir klíku fjórmenninganna táknar sigur yfir borgarastéttinni.

Félagi Hua Kuo-feng, formaður miðstjórnar flokksins, brást við á skjótan og réttan hátt, er hann laust andflokksklíku fjórmenninganna slíku höggi, að hún átti sér enga endurreisnarvon. Síðan þá hefur verið flett ofan af skemmdarstarfi hennar á sviði menningarmála og í framleiðslunni og samfara baráttunni gegn endurskoðunarstefnunni, hafa nýjir straumar fengið framrás í lista- og menningarlífi Kína. Framleiðslan hefur tekið stökk fram á við og öll alþýða landsins fagnar því, að borgarastéttin innan flokksins hefur beðið eftirminnilegan og gagngeran ósigur í baráttunni.

Chou En-lai minnst víða um ver

### Chou En-lai minnst víða um veröld.

Víða um heim hafa verið haldnir minningarfundir um Chou En lai á eins árs dánarafmæli hans Einnig hafa birst greinar um hinn látna leiðtoga og alþýða heimsins hefur haldið á lofti minningunni um félaga Chou, sem barðist alla ævi sína fyrir málstað hins kúgaða og arðrænda og lét aldrei víkja sér frá réttri stefnu í baráttu sinni. Í Kína hafa farið fram minningarathafnir um allt landið og greinar og kveðjur hafa birst í öllum blöðum. M.a. hefur komið fram, að sum þeirra skeyta, sem send voru til Kína þegar Chou lést í fyrra, höfðu verið lögð til hliðar af fjórmenningunum, en þau hafa nú verið birt í kínverskum fjölmiðlum.
Kommúnistaflokkur Íslands/ML minnist félaga Chou En-lai sem eins besta sonar kínversku byltingarinnar og sem leiðtoga fyrir byltingarbaráttu alþýðu alls heimsins.
Minning Chou En-lai mun ævinlega verða okkur hvatnig til að herða baráttuna fyrir frelsun íslensku verkalýðsstéttarinnar. Íslenskir kommúnistar munu ævinlega heiðra minningu Chou En-lai.



# ÚR BARÁTTUNNI

### SKÆRUVERKFÖLL HJÁ EIMSKIPAFÉLAGINU

Nú undanfarnar vikur hafa vélamenn í hafnarvinnu hjá Eimskip farið í skæruverkföll vegna þess að taka á af þeim kaffistofu við Reykjavíkurhöfn. Vélamennirnir urðu að gera skrúfu, því það virtist vera eina aðferðin til að halda kaffistofunni. Samningatækni Halldórs Björnssonar mátti sín hér einskis og þess vegna gripu verkamennirnir til þessara ólöglegu aðgerða að mati stjórnar Dagsbrúnar og Eimskipafélagsins.
Það hefur oft sannast að það þýðir ekki fyrir okkur verkamenn að víla fyrir okkur hlutina, þegar atvinnurekendur reyna að fótumtroða réttindi okkar, fyrirvaralaus skrúfa er sú baráttuaðferð sem sjaldan bregst.

-bsk.

Ath. Að gera skrúfu, þýðir að fara í verkfall. Var notað hér fyrr á árum.

●

### ER DAGSBRÚNARFORYSTAN SOFANDI ?

Þrátt fyrir að 114 verkamenn í Dagsbrún hafi krafist félagsfundar fyrir 30. janúar, bólar ekki á fundi. Það virðist vera að vilji okkar verkamanna skeri ekki úr um það hvort fundir eru haldnir, heldur dutlungar þeirra stjórnarmanna Dagsbrúnar sem eru á launum hjá félaginu. Þeir halda fundi þegar þeim hentar að láta samþykkja eitthvað sem ASÍ forystan hefur ákveðið, en ekki verkamenn. En ef svo bregður við á félagsfundum, að verkamenn samþykkja eitthvað sem stjórnin er ekki sátt við, er það undantekningarlaust svikið. Þannig var það með ályktanir síðasta félagsfundar, 21. nóvember. þessum starfsaðferðum verðum við verkamenn að breyta í næstu kosningum í Verkamannafélaginu Dagsbrún.

-bsk.

●

### UPPMÆLINGARVINNAN.

Er uppmælingavinna trésmiða ein af orsökum verðbólgunnar eins og svo margir halda fram?
Þessari spurningu og öðrum sem varða málefni trésmiða er reynt að fá svör við á fundum sem félagið hefur skipulagt fyrir almenna félagsmenn. Uppmælingarvinnan er mikiðtil vegna þess að dagvinnutekjurnar eru lágar. Þersvegna þræla menn sér út meðan þeir eru á besta aldri, eru að koma upp þaki fyrir fjölskyldu sína og ala upp börn Og eftirköstin láta ekki á sér standa. Um miðjan aldur eru flestirtrésmiðir með vöðvabólgur í handleggjum eins og múrarar sem vinnaeinnigmikið í uppmælingu. Þessir starfshópar eru í raun og veru að stytta starfsaldur sinn og æfi. Þrátt fyrir að þeir fái tiltölulegar mikið kaup miðað við dagvinnukaup verkamanna er ekki hægt að segja að það sé orsök verðbólgunnar, því að í staðinn leggja þeir feykilega vinnu af mörkum. Það er óhugsandi að verðmætaskapandi vinna sé á nokkurn hátt orsök verðbólgunnar, þvert á móti brask borgarastéttarinnar, og vinna sem ekki er verðmætaskapandi.

-bsk.

## Frá Samtökum Herstöðvaandstæðinga!

SAMTÖK HERSTÖÐVAANDSTÆÐINGA

TRYGGVAGÖTU 10. REYKJAVÍK.

SÍMI : 17966.

Skrifstofan er opin alla virka daga kl. 17-19. og laugardaga kl. 14-18.

Herstöðvaandstæðingar eru hvattir til að líta inn og taka þátt í starfinu.

SAMTÖK HERSTÖÐVAANDSTÆÐINGA

framhald af forsíðu

### Herðum baráttuna.

reyna heimsvaldasinnar að útmála PLO sem hóp hemdarveramanna og palestínsku alþýðuna sem glæpamannahóp, sem engan rétt eigi. Baráttan gegn þessum lygum og óhróðri um hina hetjulegu palestínsku alþýðu, verður að hljóta ósérhlífinn stuðning íslenskrar alþýðu. Það er verkefni íslenskra kommúnista að leiða þessa baráttu og skipuleggja. Þess vegna hefur Miðstjórn KFÍ/ML ákveðið að leggja mikla áherslu á starf fyrir palestínsku byltinguna og styður eindregið þau mótmæli sem fram fara við Háskólabíó. Hér til hliðar er birt dreifirit, sem Palestínunefndin á Íslandi hefur dreift fyrir utan Háskólabíó á sýningartíma.
Við hvetjum alla andheimsvaldasinna og andstæðinga kynþáttastefnu Ísraelsku síonistanna til að sýna andúð sína á áróðursbrögðum heimsvaldasinna, með því að hunsa sýningar myndarinnar í Háskólabíó og setja sig í samband við Palestínunefndina, eða KFÍ/ML til að taka þátt í dreifingu mótmælabréfsins.
PLO-frelsisfylking Palestínu hefur sent KFÍ/ML bréf og beðið okkur um að birta yfirlýsingu vegna samninga svonefndrar "Ísrael-Palestínunefndar" og fulltrúa PLO. Þessir samningar, sem birtir voru í Tel Aviv eru á engan hátt á vegum PLO og eru runnir undan rótum síonistanna í Ísrael. Það er mikilsvert að herða baráttuna fyrir uppbyggingu fjöldahreyfingar til stuðnings baráttu palestínskrar alþýðu og væntanlega mun Palestínunefndin á Íslandi kalla saman stofnþing slíkrar fjöldahreyfingar innan tíðar. KFÍ/ML er reiðubúinn að leggja af mörkum mikið starf fyrir málstað Palestínsku byltingarinnar. Það er skylda okkar við hina hetjulegu frelsis-og byltingarbaráttu Palestínumanna. Bréf PLO er birt hér til hliðar og skýrir sig sjálft.

## ÁSKRIFTARGJÖLD

Áskriftargjöld STÉTTABARÁTTUNNAR eru sem hér segi fyrir árið 1977:

| | |
|---|---|
| Ársáskrift | 3000 kr. |
| Hálfsársáskrift | 1800 kr. |
| Ársfjórðungsáskrift | 1000kr. |
| Baráttuáskrift (gildir fyrir heilt ár) | 5000 kr |

Ársáskriftir verður að greiða fyrirfram, þess vegna er hún hlutfallslega ódýrust. Þeir sem eru búsettir erlendis verða að greiða baráttuáskrift

vegna hins dýra sendingagjalds.

## HVERNIG KEMST ÞÚ Í SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS/ML?

Miðstjórn: Pósthólf 1357. Reykjavík, einnig í síma 27810
Ritstjórn Stéttabaráttunnar og Rauða Fánans: Pósthólf 1357, sími 27810 á opnunartíma Rauðu Stjórnunnar Lindargötu 15.

Suðurnes: Jónas H Jónsson Holtsgötu 26. Njarðvík. s. 2641.
Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsdóttir, Reykjarvíkurvegi 24.

Neskaupstaður: Messíana Tómasdóttir, Þiljuvöllum 38.
Snæfellsnes: Sigfús Almarsson Hellisbraut 10. Hellissandi.
Ísafjörður: Kristinn Karlsson Fjarðarstræti 7.

# Það eru við verkamenn sem ráðum

Fyrstu áratugir verkalýðs-hreyfingarinnar.

Þann 26. janúar 1906 undirrituðu 384 menn stofnskrá verkamannafélagssins Dagsbrúnar. Félagið var stofnað af verkamönnum sem sáu nauðsyn þess að verja hagsmuni stéttar sinnar og sækja fram á við. Á þeim tíma var vinnutími ótakmarkaður alla daga vikunnar án allra réttinda sem við búum við í dag eins og kaffitíma, veikinda og slysagreiðslna. Fyrstu verkalýðsfélagastjórnirnar hófust þegar handa við að berjast fyrir þessum réttindum og öðrum mannréttindum verkafólks. Þær börðust ekki eingöngu fyrir tímabundnum kjarabótum heldur reyndu að grafast fyrir meinið með afnámi einkaeignar á framleiðslutækjum og fyrir valdatöku verkalýðsins á Íslandi. Því á meðan örfáir menn eiga framleiðslutækin þá fara hagsmunir þeirra og verkalýðsstéttarinnar ekki saman því stöðugt fer fram barátta milli þessara höfuðstétta þjóðfélagsins. Eignamennirnir reyna að fá sem mest út úr vinnu verkafólksins, með lengingu vinnudagsins og öðrum beinum kjaraskerðingum.

# VERKAMENN!

Þeim sem vinna eða ætla að vinna við

**hafnargerð Reykjavíkur**

hafa verið settir þeir kostir, að vinna almennt frá kl. 6 árd. til kl. 8 síðd., eða verða af vinnunni ella.

**Verkmannafélagið Dagsbrún**

hefur komið sér saman við alla helstu vinnuveitendur bæjarins, um það, að almennur vinnudagur sé frá kl 6 árd. til kl 6 síðd., og vinna þar framyfir sé talin aukavinna og borguð betur.

**Útlendingur** sá, sem hafnarvinnunni stýrir,

ætlar að **kúga** íslenska verkamenn

til þess að samþykkja 12 tíma vinnudag, en landar hans, af verkmannaflokki, berjast fyrir því allir, að lögleiða 8-stunda vinnudag.

**Þetta kúgunarboð** mundi enginn maður komast fram með í nokkru siðuðu landi.

Ætlið þið, verkamenn í Reykjavík, að brennimerkja ykkur sem skrælingja? Við verkamenn í höfuðstað landsins skulum ekki láta það ásannast, að þessi útlendi vinnuveitandi stjórni vinnutíma vorum, heldur skulu það vera vor **einkunnarorð:**

**Það eru við verkamenn, sem ráðum.**

Þeir sem vilja hag og heiður íslenskra verkamanna, verða að neita þessu boði, allir sem einn. Þeir sem ganga að **kúgunarkjörunum,** setja blett á nöfn sín og verkmannastétt bæjarins í heild sinni, sem seint verður afmáður.

*Margir verkamenn.*

Flugrit gefið út af Verkamannafélaginu Dagsbrún 1913.


DAGSBRÚNAR VERKAMAÐURINN

Nýja vinnulöggjöfin

Samningar

Iðnadarm. og verkam.

Baráttan

Dagsbrúnar Verkamaðurinn blað Baráttuhóps Dagsbrúnarmanna 1977.

Núverandi ástand í verkalýðs-hreyfingunni

Nú áratugum síðar hefur ástandið breyst því forystumenn flestra verkalýðsfélaganna eins og t.d. Dagsbrúnar berjast ekki fyrir hagsmunum verkafólks. Alþýðubandalagið og Sjálfstæðisflokkurinn sem berjast hatrammri baráttu um þingsætin hafa gert milli sín pólitísk hrossakaup um forystu flestra verkalýðsfélaganna án tillits til raunverulegra hagsmuna verkafólks Þannig er því t.d. farið í Verkalýðsfélaginu Dagsbrún. Í stað þess að byggja baráttuna á virkni verkalýðsfjöldans eins og áður var gert er ákvörðunarvaldið í verkfalls- og samningamálum í höndum fárra forystumanna ASÍ sem eru gjörsamlega slitnir úr tengslum við verkafólk og lífskjör þess. Glöggt dæmi um lélegar starfsaðferðir ASÍ í kjarabaráttunni er síðasta allsherjarverkfall og samningarnir í kjölfar þess.

Atvinnurekendur vissu um verkfallið mörgum mánuðum áður en það skall á og gátu því undirbúið sig fyrir það. Verkfallið varð máttlaust og til þess eins að þreyta og svelta verkafólk þannig að það gengi að smánarsamningum. Þetta vissi ASÍ forystan fyrir enda tekur hún ábyrga afstöðu gagnvart afkomu atvinnuveganna en ekki hagsmunum verkafólks. Slíkt er einungis þjónkun við eigendur atvinnutækjanna. Af þessum sökum hefur verkafólk misst trúna á forystu verkalýðsfélaganna og telur verkalýðsfélögin og verkföllin ekki lengur baráttutæki sín

En til eru aðrar aðferðir í verkfallsbaráttunni. Verkalýðshreyfingin getur beitt skæruverkföllum einstakra hópa verkalýðsins, til að lama stóran hluta atvinnulífsins og knýja þannig fram stórfelldar kjarabætur. Þessum aðferðum hafa danskir stéttarbræður okkar beitt með góðum árangri undanfarna mánuði.

Baráttuhópur Dagsbrúnarmanna

Við baráttufúsir verkamenn í Dagsbrún höfum myndað með okkur samtök sem standa utan við alla flokkapólitík er við nefnum Baráttuhóp Dagsbrúnarmanna. Á síðustu mánuðum höfum við gefið út blað á eiginn kostnað sem við höfum dreift ókeypis á vinnustöðum. Blaðið heitir Dagsbrúnarverkamaðurinn og kemur út eftir þörfum, þar til stjórn Dagsbrúnar hefur efnt samþykkt frá síðasta félagsfundi sem haldinn var 21. nóvember. Þar var samþykkt að gefa út blaðið Dagsbrún og dreifirit eftir þörfum og skal öllum Dagsbrúnarmönnum vera frjálst að setja þar fram skoðanir sínar, á verkalýðsmálum. Á þessum fundi voru gerðar tvær samþykktir á tillögum sem baráttuhópurinn bar fram, önnur um útgáfustarfsemi á vegum félagsins sem að framan greinir og hin um mikilvægustu kröfu verkalýðsins í kjarabaráttunni. Kröfunni um að Dagsbrún berðist fyrir því í komandi samningum að greidd væru "lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku með ófalsaðri vísitölu". Þessar samþykktir báðar hefur Dagsbrúnarforystan svikið, ekkert bólar á að blaðið Dagsbrún komi út og á ASÍ-þinginu skömmu eftir félagsfundinn samþykktu þeir hina afturhaldssömu kröfur um 100 þús. króna lágmarkslaun.

Baráttuhópurinn hefur orðið að fara þá leið til að fá félagsfundi í Dagsbrún að safna undirskriftum meðal verkamanna þar sem krafist er funda. Við skorum á stjórn Dagsbrúnar að svara fyrir starfsaðferðir sínar og endurskoða starfsemi sína ef hún ætlar sér ekki að vera verkamönnum fjötur um fót í verkalýðsbaráttunni. Slíkt er ekki vel liðið. Einnig skorum við á verkamenn sem eru hlynntir baráttu okkar og vilja koma til liðs við okkur að hafa samband. Undirskriftalistar liggja nú fyrir á skrifstofu Dagsbrúnar með kröfum um félagsfund fyrir 30. janúar. Dagsetninguna stóð Dagsbrúnar forystan ekki við en fundurinn hlýtur að verða á næstunni.

Verkamenn fjölmennum á fundinn, það er fyrsta skrefið í því að gera verkalýðsfélagið að baráttutæki okkar.

F.h. Baráttuhóps Dagsbrúnarmanna

-ghb. -bsk. -þbh.

Framhald af forsíðu.

# Geirfinnsmálið...

þær könnuðust við hann sem símamanninn úr hópi margra. Viss líkindi eru með styttunni og Kristjáni Viðari, en teikningar sem einnig voru gerðar eru nokkuð frábrugðnar svipmóti hans.

Má mikið vera, eins og herra Schüts benti raunar sjálfur á, ef konurnar hafa ekki veitt stærð Kristjáns Viðars athygli sem og háralit hans ef þær treysta sér til að lýsa manninum sem notaði símann umrætt kvöld.

Herra Schüts og allir hans menn

Þýski kriminólóginn fer kátur ur brott frá Íslandi og vill deila "heiðrinum" af lausn málsins með íslenskum starfsbræðrum sínum. Ekki er að efa, að hann vill ekki eiga heiðurinn þann aleinn. Það skilur hver sá, sem íhugar nánar söguþráðinn og atburðarásina sem lögreglan leggur fram sem lausn málsins. Það er einkennilegt, að lítilmótlegir veskjaþjófar, sem þó hafa allnokkur umsvif, skuli geta dregið íslenska rannsóknarlögregluna á asnaeyrum í rúm 2 ár og herra Schüts að auki. Lögðu rannsóknarlögreglumennirnir virkilega trúnað á því sem næst allt, sem sakborningarnir sögðu við yfirheyrslur? Stjórnuðu smáþjófarnir rannsókn málsins, allt fram á sumar 1976, eða er íslenska rannsóknarlögreglan ekki starfi sínu vaxin? Þetta er enn eitt íhugunarefnið sem vaknar þegar Geirfinnsmálið og framrás þess ber á góma. Alla vega er það einsdæmi að sakborningar sem uppvísir eru að morði, geti með framburði sínum sem vel að merkja er látinn í té í strangri einangrun, flækt saklausa menn inn í málið, án þess að lögreglan verði missagna vör

Hvert er þá réttaröryggið orðið orðið, ef misyndismenn geta sakborið þá sem þeir vilja og eiga kannske eitthvað sökótt við, og lögreglan lætur umsvifalaust loka þá inni og halda þeim bak við lás og slá í marga mánuði? Slíkt réttaröryggi er ekki upp á marga fiska. En e.t.v. verður mörgum hugarhægra, þegar þess er gætt að lögreglan hlýtur að hafa rökstuddar og ærnar ástæður fyrir handtöku fjórmenninganna, sem sátu inni s.l. sumar. Ef hún hefur ekki haft annað en andstæðukenndar ímyndanir sakafólks til að fara eftir, er sannarlega ekkert réttaröryggi á Íslandi.

/ KG

# Sovétstskir njósnarar afhjúpaðir

Fyrir skömmu var njósnari í Norska utanríkisráðuneytinu afhjúpaður og handtekin. Njósnarinn, miðaldra kona að nafni Gunvor Haavik, hefur stundað

stundað njósnir fyrir sósíalheimsvaldasinnana í fjölmörg ár, að því er sagt er. Samstarf hennar við starfsfólk í sovéska sendiráðinu í Osló, hefur leitt til þess, að norska ríkisstjórnin hefur vísað nokkrum sovéskum sendiráðsstarfsmannanna úr landi. Meðal þeirra er 3. sendiráðsritarinn.

Þrýsta á úrsögn Íslands úr NATO

Samkvæmt framburði fröken Haavik, var eitt verkefnið að þrýsta á úrsögn Íslands úr NATO. Geta má nærri, að sovéska leyniþjónustan er ekki að herða á úrsögninni af umhyggju fyrir frelsi íslensku þjóðarinnar, heldur af hernaðarlegum hagsmunaástæðum. Sovéski flotinn hefur aukið útþenslustefnu sína á undanförnum árum, eins og STÉTTABARÁTTAN hefur margoft bent á. Þess er skemmst að minnast hvernig rússar hafa reynt að þvinga Norðmenn til að viðurkenna rétt sinn yfir Barentshafi, en Gunvor Haavik, útvegaði KGB mikilsverðar upplýsingar varðandi deilurnar um Barentshaf.

Eru KGB-njósnarar á Íslandi?

Þessar fréttir leiða hugann að því hvort KGB - sovéska leyniþjónustan - reki ekki njósnastarfsemi á Íslandi eins og í grannlandi okkar Noregi. Það er alla vega víst, að flett hefur verið ofan af njósnastarfssemi sovétmanna í smáríkjum eins og Luxemborg og San Marino. Orsökin fyrir því að sósíalheimsvaldasinnarnir hafa komið upp njósnastöðvum í þessum smáríkjum, er líklega sú, að þessi smáríki hafa mannfáa lögreglu og litla möguleika á að fylgjast gjörla með njósnaumsvifum stórveldanna. Eitt er víst. Hvorki Bandaríkin né Sovétríkin skirrast við að beita öllum ráðum til að styrkja aðstöðu sína á N-Atlanshafi. Njósnastarfssemi er ein leiðin til þess, þess vegna verður íslensk alþýða að vera á varðbergi gagnvart njósnastarfsemi risaveldanna.

Franhald af baksíðu

KAMBODÍA LAND Í ÖRUM.....

öflunum, og þess vegna reynir CIA að halda þrælataki sínu á landinu með því að breiða út lygar og óhróður um Kambódíu

En alþýða Kambódíu veit að hún stendur ekki ein, alþýða heimsins hefur sýnt að hún styður baráttu þeirra fyrir þjóðlegu sjálfstæði. Heimsvaldasinnar allra landa fyllast óhug yfir óförum Bandaríkjanna Að mesta herveldi sögunnar tapi fyrir annarri eins "kotunga þjóð". En þetta er ekkert einsdæmi þetta hefur skeð áður sbr. Kína, Víetnam, Albaníu, Mósambik og víðar, og þetta á eftir að ske æ ofan í æ þangað til alþýða heimsins hefur sigrað í baráttunni gegn auðvaldinu og stofnað ríki verkamanna og alþýðu.

Barátta kambódískrar alþýðu er fordæmi, sem við verðum verðum að læra af.

ghr/-




VERKFÖLL Í NOREGI

Fimmtudaginn 6. janúar fóru hafnarverkamenn í Osló í verkfall. Þeir hafa barist fyrir því í mörg ár að fá greidd föst laun í stað forkastanlegs akkorðskerfis. Samningar voru gerðir árið 1976 sem hafnarverkamennirnir felldu með 186 atkvæðum gegn 33. Í þrem höfuðatriðum voru samningarnir þannig að ekki var hægt að ganga að þeim. Þau voru: 1) Samningarnir setja atvinnurekendur í meirihluta í stjórn "Útskipunar og uppskipunar Oslóar", sem skipuleggur hafnarvinnuna í Osló. áður höfðu verkamenn 3 fulltrúa og atvinnurekendur 3. 2) Gert er ráð fyrir 40 tíma fastri vinnuviku auk 14 tíma yfirtíð. Verkamennirnir eiga að vinna yfirvinnu hvert kvöld 2 vikur í röð og til kl. 22 síðustu kvöldin, og þriðja hvern laugardag. 3) Kveðið er á um föst laun til handa verkamönnum en það hefur í för með sér 5 norskra króna lækkun á tímakaupi þeirra.

Akkorðsvinna hefur marga galla, en hafnarverkamennirnir vilja ekki skipta á henni og vinnu sem lækkar laun þeirra. Meðalaldur hafnarverkamannanna er 57 ár. Þeir hafa haft kerfi sem úthlutar eldri verkmönnum léttari verkum, en á fullum launum. Samkvæmt nýju samningunum geta atvinnurekendur ráðskast með eldri starfsmennina eftir eigin geðþótta, sem augljóslega hefur í för með sér að laun þeirra myndu lækka. Þessar eru ástæðurnar fyrir því að hafnarverkamennirnir ákváðu að fara í verkfall.

Taglhnýtingar borgarastéttarinnar, verkfallsbrjótar tóku til starfa á bryggjunni daginn eftir að verkfallið hófst, verndaðir af lögreglu Osló-borgar. Þeir eru tæki borgarastéttarinnar til að brjóta niður verkföll og því er það mikilvægasta verkefni verkamanna að stöðva vinnu þeirra. Margsinnis kom til átaka og sýndi það sig augljóslega hvert eðli lögreglunnar er í borgaralegu þjóðfélagi, því hún snérist alltaf gegn verkamönnunum og fékk liðsauka þegar á þurfti að halda til að geta barið þá niður. Hatrið gegn borgarastéttinni, verkfallsbrjótunum og lögreglunni sem verndar borgarastéttina og eignarrétt hennar á framleiðslutækjunum hefur blossað upp meðal hafnarverkamanna. Þeir njóta stuðnings stéttar sinnar og treysta eingöngu á baráttukraft hennar og sín. Falskir verkalýðsforingjar og borgaralegir sáttasemjarar hafa reynt að buga og sundra verkamönnum með fortölum um að leggja niður vopn og halda friðinn, en þeir treysta frekar eigin reynslu frá verkalýðsbaráttu fyrri ára og gefa hvergi eftir





Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



STÉTTABARÁTTAN
3. tbl. 6. árg. 8/2 1977

Útg.: Kommúnistaflokkur Íslands m-l

STÉTTABARÁTTAN kemur út vikulega

Sími: 27810
Gíró: 27810

Ábyrgðarm.: Sigurður Ingi Andréson


# Hvar eru friðunar sjónarmiðin núna

Íslenska fiskveiðilögsagan var færð út í 200 mílur með fiskvernd og friðun að yfirlýstu markmiði. Þegar makkað er um fiskveiðiheimildir öðrum þjóðum til handa er það yfirleitt gert í nafni fiskverndar.

Sjávarútvegsráðherra hefur margítrekað að sókninni skuli í vaxandi mæli beint á aðrar fisktegundir en þorsk, og þá einkum ufsa og karfa. Þannig gæti virst að alvara búi hér að baki, að borgararnir ætli raunverulega að reyna að stuðla að skynsamlegri nýtingu fiskistofnanna við landið. En í þessu máli er ekki allt sem sýnist. Fiskkaupendur (þ.e. frystihúsaeigendur) hafa nefnilega aðrar skoðanir á því hvernig skuli staðið að málunum. Í bréfi frá stjórn SAFF (Samband fiskframleiðenda) kemur fram mikill barlómur um hag frystihúsanna. Orsakir slæmrar afkomu frystihúsanna eru aðallega taldar vera launahækkanir, hækkað hráefnisverð auk þess að greiðslur til frystihúsanna úr Verðjöfnunarsjóði féllu niður um áramótin. Einnig telja frystihúsaeigendur að rekstur þeirra þoli ekki það óvenjulega ástand sem verið hefur í gjaldeyrismálum þjóðarinnar s.l. 2 mán. nefnilega það að svo til ekkert "gengissig" hefur orðið á þessum tíma. Telja þeir því að gróðinn af frystihúsunum á þessu ári verði næsta smár. Helstu breytingar á rekstrargrundvelli frystihúsanna frá því í fyrra segja þeir að verði eftirfarandi:

Þoskur : Hækkun tekna tæpl. 2%,
hækkun kostnaðar 8%.

Ýsa : Hækkun tekna 8%,
hækkun kostnaðar 14%.

Ufsi : Lækkun tekna 12-13%,
hækkun kostanaðar 6%.

Karfi : Lækkun tekna 6-10%,
hækkun kostnaðar 6%.

Af þessum tölum draga þeir síðan þá ályktun að ekki borgi sig lengur að veiða ufsa og karfa og eru lokaorð bréfs SAFF á þessa leið: "Ljóst er að fjölmörg frystihús lenda í miklum rekstrarerfiðleikum þegar á fyrstu mánuðum ársins. Helst kynni það að vera til ráða að frystihúsin hvettu þau skip sem leggja upp afla hjá þeim til að draga úr veiðum ufsa og karfa eins og frekast er kostur en einbeita sér þess í stað að þorskveiðum"

Þau sjónarmið sem koma fram í þessu bréfi eru hin raunverulegu sjónarmið borgaranna skammtímasjónarmið, sem mestur gróði á sem skemmstum tíma. Þeir taka ekki mið af hagsmunum alþýðunnar, þegar fiskistofnana þrýtur eru þeir reiðubúnir að flytja fé sitt í aðrar og arðvænlegri atvinnugreinar.

Það kom einnig berlega í ljós í svari Matthíasar Bjarnasonar þegar fréttamenn útvarps inntu hann eftir því hvað ríkisstjórnin hyggðist gera í þessu máli með hliðsjón af því að þarna er boðuð stefna er gengur í berhögg við fyrri yfirlýsingar ráðamanna um friðun og minnkaða sókn í þorskinn. Ráðherrann svaraði því til að hann teldi ekki ástæðu til frekari ríkisafskipta. Þannig viðurkennir hann að allt talið um friðun á aðeins við innan þeirra marka sem gróðasjónarmið borgaranna leyfa, og ekki er ætlunin að grípa til neinna "stjórnunaraðgerða" til að auka sóknina í aðrar fisktegundir. Ef frystihúsin græða mest á þorskinum þá skal líka veiddur þorskur hvað sem allri fiskvernd líður.

Þetta gróðasjónarmið samrýmist á engan hátt hagsmunum alþýðunnar. Barátta vinnandi fólks verður þess vegna í síauknum mæli að verða barátta gegn rányrkju einokunarauðvaldsins á miðunum og fyrir friðun fiskistofnanna.

/I. P.



Þorsteinn Sveinsson

# Ókeipis lögfræðiaðstoð

Opnuð hefur verið skrifstofa á vegum Íslenskrar réttarverndar, þar sem almenningi eru veittar lögfræðilegar upplýsingar og aðstoð. Skrifstofan er í Miðbæjarskólanum og mun hún til að byrja með verða opin þriðjudaga-föstudaga frá kl. 4-7. Starfsmaður Réttarverndar hefur verið ráðinn: Þorsteinn Sveinsson, lögmaður.

Verkafólk og annað láglaunafólk öðlast hér gullið tækifæri á því að ná fram rétti sínum án þess að kaupa rándýra lögfræðiaðstoð. Lög réttarverndar kveða á um að "berjast fyrir mannréttindum og veita þeim réttarvernd sem órétti eru beittir". Félagið hyggst styðja skjólstæðinga sína siðferðislega og með fjárstyrkjum til að gera þeim kleyft að ná fram rétti sínum.

Félagið hefur sent stuðningsyfirlýsingu gegn lokun mjólkurbúðanna og gegn nýja vinnulöggjafarfrumvarpinu.

Formaður Réttarverndar er Bragi Jósefsson og aðrir í stjórn eru: Inga Birna Jónsdóttir varaformaður, Guðlaugur Stefánsson ritari, Valborg Böðvarsdóttir gjaldkeri, sr. Sigurður Haukur Guðjónsson, Sigvaldi Hjálmarsson, Gísli G. Ísleifsson, Jörmundur Ingi og Guðný Bersdóttir.

-bsk.

# UNDIRSKRIFTASÖFNUN

Á almennum liðsmannafundi hjá Landhelgissamtökunum sem haldinn var 8. jan. s.l. var samþykkt ályktun um að samtökin hæfu undirskriftasöfnun meðal alþýðu fólks gegn öllum fiskveiðiheimildum til handa EBE eða ríkja utan þess. Er yfirskrift listanna svohljóðandi

Föstudaginn 28. jan. hófst svo söfnunin formlega með stöðu utan við Alþingishúsið og var þar safnað undirskriftum meðal vegfarenda og kynningarriti samtakanna dreift. Þær undirtektir sem söfnunin fékk þegar í upphafi sýna ljóslega hug fólks til samningamakks stjórnvalda við EBE. En þær leggja um leið þær kvaðir á liðsmenn Landhelgissamtakanna að þeir leggi nú allan sinn kraft í að skipuleggja og reka þessa söfnun svo að hún gefi raunsæa mynd af því hve mikinn hljómgrunn þessi krafa á meðal þjóðarinnar. Annars er ver af stað farið en heima setið.

/PS.

Undirritaðir einstaklingar mótmæla öllum umleitunum eða samningum ríkisstjórnar Íslands við Efnahagsbandalag Evrópu og þjóðir utan þess um fiskveiðiheimildir innan 200 mílna fiskveiðilögsögunnar. Er þess krafist að öllum viðræðum í þessa átt verði hætt og til þeirra ekki stofnað.

Nafn: Heimili:

# Kabodía land í örum vexti

Þann 17. apríl 1975 vann Kambodísk alþýða undir leiðsögn Byltingarsamtaka Kambodíu fullnaðarsigur á Lon Nol klíkunni En hún var handbendi bandarísku heimsvaldasinnanna er höfðu haldið uppi látlausum árásum á Kambodíu í 5 ár. Um 800.000 manns létu lífið í bardögunum og 240.000 koma til með að bera örkuml alla sína ævi af völdum stríðsins. Um 80% af framleiðslutækjunum voru lögð í rústir á meðan stríðið stóð yfir.

Á þessum tæpu tveim árum sem liðin eru frá frelsun Kambodíu hafa ótrúlegir hlutir gerst Uppbyggingin í landbúnaðinum hefur leitt til þess að nú eru Kambódíumenn sjálfum sér nógir í matvælaframleiðslu. Ræktun landsins er í fullum gangi, hektara eftir hektara, er breyt úr því að vera órækt og skógar í grænar ekrur. Með fullkomnu áveitukerfi hefur þeim tekist að fá tvöfalda uppskeru á ári. en það hefur ekki skeð síðan fyrir 800 árum. Vélvæðingin í landbúnaðinum færist sí og æ í aukana, nú eru þeir búnir að reisa nýjar verksmiðjur til að framleiða landbúnaðartæki, þar á meðal dælur sem notaðar eru til áveituframkvæmda. Einnig hafa verið reistar verksmiðjur til að vinna úr landbúnaðarafurðum.

Kambodíumenn ákváðu að treysta einungis á eigin krafta við uppbygginguu landsins, því þeir eru staðráðnir í því að breyta Kambódíu úr því að vera vanþróað landbúnaðarland í háþróað landbúnaðarland og því næst í iðnaðarríki.

Sovétmenn urðu ævareiðir yfir því að ekki var leitað til þeirra um tæknilega og fjárhagslega aðstoð við uppbygginguu landsins. En kambódísk alþýða þekkir heimsvaldaeðli Sovétríkjanna, því sovétmenn studdu m.a. Lon Nol-klíkuna.

Á alþjóðavettvangi hafa Kambódíumenn sannað að þeir eru stuðningsafl við baráttu þriðja heimsins og hafa þeir stutt öll hans baráttumál m.a. hafa þeir í baráttu sinni gegn heimsvaldastefnunni snúist gegn kröfu risaveldanna um "frjálsar siglingar" um heimshöfin.

Undanfarið hafa dunið í fréttum, sögur frá Kambódíu um gífurlega hryðjuverkastarfsemi, sem þar sé framin gegn alþýðunni. Greinilegt er, að þessar fréttir eru runnar undan rifjum bandarísku leyniþjónustunnar CIA, og leyniþjónustu Thailands. Gott dæmi um þessi vinnubrögð eru myndir sem hafa birst í borgarablöðunum og eiga að sýna hryðjuverkin í Kambódíu. Nú hefur verið sannað á óyggjandi hátt að allar myndirnar eru falsaðar af leyniþjónustu Thailands, ætlaðar til að hræða fólk frá því að kjósa sósíalíska flokka.

Það er bandarískt blað: US. Indochina Report, sem afhjúpaði falsanirnar. Blaðið er gefið út af Indochina Research Center í Washington. Myndirnar birtust fyrst í thailenska blaðinu Thai Rath. Við athugun fundust strax merki þess að myndirnar væru falsaðar, t.d. klæðnaður þeirra bænda og hermanna, sem myndirnar áttu að sýna. Nokkru seinna átti blaðið Bangkok Post viðtal við foringja í thailensku leyniþjónustunni, sem sagði að myndirnar væru teknar í Thailandi. "Aðeins ég og ljósmyndarinn áttu að vita þetta" sagði hann við blaðamann Bangkok Post.

Kambódíumenn hafa sannað að smáþjóð getur haldið sjálfstæði sínu gagnvart heimsvalda

framhald síðu 3





# Eflum Kommúnista flokk Íslands

Við félagar á Hellissandi fordæmum harðlega klofningsstarf 7-menninganna og lýsum yfir fullum stuðningi við flokkinn og miðstjórn hans. Jafnframt hvetjum við félaga að hafna algerlega starfsaðferðum 7-menninganna, en hafa í heiðri regluna: Eining-gagnrýni-eining.

Fram til baráttu til eflingar Kommúnistaflokks Íslands.

Stuðningsdeild KFÍ / ML
Hellisandi.





